# Utlegging

yfer

## Norsku Laga

V. Bókar II. Capitula

# Um Erfder

med

Stuttum Utskríngum

á því sem Þúngskiled er.

Giord af

S. M. J. D.



Selz óinbunden 10 skildingum.

Prentud ad Hrappsey,
í því nýa Konúngl. privilegerada Bókþryckerie.
Ar 1773.



# Kiærer Landar.

Og óſka því nÿia Prentverke, ſem nú er ſett í Hrappsey, til Luck u under allra Vor nafne; Og þad þeſſ heldur, ſem Eg á þar eckert í, ſo ad mitt eged gagn knÿr Mig eí þar til. Þad er venia ad tilſkrifa einhvörium gódum og ſtórum Manne þad, ſem gefed er út á prent. Enn þeſſe Bæklíngur, ein Utleggíng, giørd í flÿter, dirfez eí ad bióda ſig neinum ſerílage. Enn med því Hún er giørd Ydur, Míner Landar, til Undervíſunar, ſem eí hafed á odru faung, þá vil Eg tilſkrifa Ydur hana, og aptur óſka því nÿia Prentverke Ydar vegna til Lucku.

Þier munud smátt ad þessu hlægia, og segia þad, sem satt er, ad einginn hafe gefed Mier unnbod til þessa. Þad er satt; Eg vil hlægia med Ydur; enn ad hvöriu? Má ei verda úr því Alvara? Erum Vier nú so fullkomner ad Vier þurfum aungrar Uppfrædíngar vid. Hvad giorde oss iafna ödrum Kóngsins Undersátum í Guds Þeckíngu meir enn Prentverkid? Eru ei Gudbrande Byskupe ódaudlegar þacker ad kuma næst Gude, sem med prentudum Bókum upplýste Vora Forfedur í sínum Sáluhiálpar efnum? Er oss þá í aungvu ábótavant ödru enn oss var þá í Vorum Trúarbrogdum? So ætla Eg flester þenke ad oss vante ei mikid. So þenktu og Vorer Forfedur þá Trúarbrogdin voru endurnýud, þeim þótte ser ei ábótavant;

og

og í þeirre meiníng, Menn aldrader orduer dóu þeir og voru under Guds þolinmæde. Þó medkennum Vier nú ad Vor Trúar-brøgd seu betre enn þeirra, og einginn getur neitad því ad Prentverkid hefur mest hiálp-ad til þess. Ef Vier nú þektum eins Vora Vanvitsku í Búskapar- og Hondlunar-Sok-um eins og Vier þeckium Vanvitsku Vorra Forfedra í Trúarbrøgdunum, þá mundum Vier Prentverke þessu allshugar fegner verda. Enn Vier þeckinn eí Vora Vankunn-áttu. Er þá eí best ad trúa Kónge Vorum og Hans Vísu Monnum? Þad giordu Íslendíngar, Forfedur Vorer, þá þeir bádu Magnus Kóng **Lagabæter** ad um-bæta Løg sín. Trúum CHRISTIAN **Siøunda**, CHRISTIAN **Gooda**,

Christian Lagabæter, trúum Hans Vísu Monnum, ad Hann vill eí, og þeir segia Honum eí annad enn oss má vera til gagns. Vier þikiumz Vitrer. Enn því sez þá óvída rett og gagnlega unned á Túnum, og óvídast rett fared med Aburdinn? Eg tek til þess, sem flestum mun þikia audvirdelegast, og sem aller þikiaz kunna. Til hugvekiu dirfez Eg þetta ad segia: Næst Guds Elsku er Elskan til Náúngans. Eñ Vier þikiumz Náúngann elska þá Vier berum á Túnid kañske 12. Kapla edur líted meira; kannske og miked meira: Enn Túnid hefur, vegna óнýtrar Avinslu, eí meira gagn af því, enn helminge minna betur nýttu; so smámsaman kemz sú Jordin, sem, ádur bar 8. Kýr, í þad stand ad

hún

hún naumlega fódrar 4. Kýr, og ætíd fer henne meir og meir aptur, so varla er gras-vøxtur nockur upp úr Túnum, nema kríng-um Bæinn og Húsin, utan kanske í bestu gras-árum. Er þetta nú ad elska sinn Náúnga, ad elska sína Epterkomendur, ad elska sitt Fodurland, sem er hin ædsta trappa í Náúngans Kiærleika? Ef nock-ur giorde þetta á móte betra vite, þá være Eg óhræddur ad dæma Hann allt-eins og Geistleger dæma þann, sem hatar sinn Bródur; Því sá sem vanræker Jord sína, hann spiller henne, spiller fyrer sín-um Náúnga, fyrer sínum Epterkomend-um og fyrer Fodurlandinu. Hve miked liggur þá eí á því fyrer Geistlega og Verds-lega, ad dæme so margra bæde inngn- og

utan-lands Góðra Manna að stunda sinn Búskap, og með því að gánga undan öðrum með góðum fyrermindum. Enn þá munu nockrer segia, að þetta Prentverk se ei utan til að útsiúga Landeð. Ja! það sannaz á mörgum að Hann dæmer um það, sem Hann veit ei. Af því að þetta Prentverk vænte ei aðstoðar her í Lande, so hefur það útvegað ser her um 200 Subscribenta utanlands, Góða, Vitra, og Lærða Menn, og þeir girnaz það ei miøg sem Almúge kauper her í Lande; so það sem útkemur frá því er heldur til að draga penínga inn í landeð, heldur enn útsiúga það. Til allrar ógiæfu eru þeir ei so miøg marger, sem hafa vit af oss að skrifa Islande til gagns;

færre þeir sem vit til hafa, sem vilia edur nenna; og fæster þeir sem voga ad kosta uppá Upplagid. Þier Míner Fedur! Þier sem ei geted skiled þad nýia, fyrer Ydur er best ad hyra affram og inn í eilífdina; enn þó á medan þier lifed, ad spilla ei odrum eins og Vorer Forfedur giørdu vid Trúarbragdanna Umbretíng. Hinum þeim yngre, Mínum Brædrum, vil Eg ráda ad lesa þad sem um Nýúngar er skrifad, og leitaz vid ad útrýma allar Innbirlíngar. Enn Eg Ydar Bróder medkenne og þreifa á Minne Vanvitsku og Vanmætte, og þvé heldur vorkinne Ydur, sem Eg hefe átt bágara med og á enn nú bágt, ad brióta

af gomlum vana, sem hiá flestum af almúga drottnar, enn hiá sumum rædur fyrer vitid. Þessar Mínar velmeintar Hugvekiur virded vel Kiærer Landar, og lifed vel.

Eg vil ætíd finnaz

Ydar

Bd. d. 3. Septembr.
1773.

Þienustuskyldugur Þienare
S. M. J. D.



# Formaale.

Fátt er so prentad ad ecke fylge Formále; og þar fyrer verd Eg og í því nafne ad tala nockur ord fyrer þessum Bækling. Eg hefe lenge eptervænt ad Prent-Smidian á Holum munde gefa oss íslendskadar þær Norsku Erfder, sem epter Forordníngunne af 17. Februarii 1769. ega ad gánga her í Lande; og þad þess heldur, sem somu Erfder eru á ókenda túngu, þá fæster af Almúga skilia og enn færre ega þau Norsku Log; var því allur fiølde fólks blindur í íslendsku Arfgenge sídan nefnd Forordníng útkom. Enn med því þad vilde verda lánga bidin epter Erfdum frá Holum, so hefe Eg rádez í ad fá þær somu Prent-Smidiunne í Hrappsey til ad bera nidur á. Einginn held Eg mune kalla þetta Mitt ómak ónýtt, ef

Eg

Eg hefe vel útlagt; enn Eg hefe eí einasta útlagt; heldur og lagt til nockrar Utskíríngar, sumar af siálfum Mier enn þó fleire epter ødrum lærdum Mønnum, hvoria Eg hefe þó eí nefnt utan Tyro Juris, fyrer því ad Hann er ordinn alþýdu kunnugur, enn hiner ókunnuger. Ad Eg hafe nú vel útlagt edur útskírt sege Eg víst ecke; hitt sege Eg, ad Eg hefe giørdt þad so vel, sem Eg gat á naumum tíma. Eg hefde getad giort þad kañske betur, hefde Eg mátt láta þad liggia og lagfært epter því, sem Mier hefde huggvæmt, enn Prent-Smidian kallar og adrar anner, sem Eg verd meira ad meta. Allmúge mun eí stórt ad finna; heldur med því ad Hann er her hnísnare og bóknámsgiarnare heldur enn í mørgum ødrum Løndum, mun Hann vilia Bæklínginn lesa og ega adfindneslaust. Enn þeir Lærdu og þeir Vísu kannske adfinne og gete adfundet. Þeir eru tvennslags, því annadhvort finna þeir ad med hógværd og lagfæra og þeim vil Eg þacka fyrer og medkienna Mína Yfersión ef hana þecke, og med allre Virdíng svara. Hinum, sem eí hafa lært þessa Sidseme,

vil

vil Eg aungvu svara. Hvad vidvíkur siálfre Utleggíngunne, og hefe Eg þar fylgt meira Meiníngunne enn Ordunum, og so aptur fylgt meira Ordunum og Rædu-forminu heldur enn gomlum íslendskum Laga Stíl; þó hefe Eg leitaz vid ad gánga Med-alveginn og fordaz, so miked, sem Eg óvanur í fliótlæte hefe getad, Danska Is-lendsku; veit þó ad þar í er miog ábóta vant, sem betra hefde mátt verda med gódu tóme; því Vort Mál er audugra enn marg-ur óhygginn ætlar. Frá almennre Bók-stofun hefe Eg og nockud viked, og munu marger ad því finna; enn adrer munu vel yfer láta; þad kostar Mig þá eí annad enn ad hlaupa úr flocke hinna fyrre og fylgia hinum sídare; því Mín stadfost Regla er þad: in nullius jurare verba magistri. Enn í þessu held Eg þad skyldugt og rett ad halda uppá því gamla, so miked sem má, ad annarra þióda dæme; og være þad stór æra fyrer þad Nýia Prentverk, ef þad giœte ákomed betre Bókstofun; munde þar á epterfylgia lagfæríng Túnguñar, sem nú árlega aflagaz.

Þad munu kañske einhvorler segia, ad þetta Verk se óþarfe, því þau Nýu

Is-

IslendskuLøg, sen brádum væntanleg. Vera má ad so se; þó er þad óvíst. Enn med því Erfder í þeim munu ega ad vera hinar somu og í Norsku Løgum, þá er þetta ei ónýtt: því þad útskírer margt þad, sem í þeim er ólióst, og ei er ad vænta í siálfum Løgunum ad so greinelega se útmálad. Enn munu marg-er segia ad í þessum Bæklínge se margt, sem eckert ege vid Island; þad er satt. Enn þad hefe Eg annadhvort í tilløgd-um Utskíríngum ávísad, edur þad sýner sig siálft, þó ei se tilbendt. Enn þó sýner þad oss um̃ leid, hvad miked oss vantar á vid Vora Brædur, þá Norsku sem eingin landgiæde hafa fram̃yfer oss, fyrer utan Skóginn, og þad er satt, þad giører leiksmunin, þó eingin ósigrande vandræde sem Forstand og Fylge gete ei vid hast. Enn þessar Erfder hefe Eg útlagt Alþýdu til Undervísunar og hana bid Eg vel ad virda vidleitne Mína. Þeir Lærdu og Vísu þurfa ei miñar Undervís-unar, enn þá bid Eg gott til ad leggia.

## Rescript
til Stift-Amtmañs v. Prôck
### Um̃ Erfder á Jslande.

CHRISTIAN sá Siounde af Guds Naad Konungur i Danmørk og Norege, Vinda og Gauta, Hertoge i Slesvik, Holstein, Stormarn og Dytmersken, Greife i Oldenborg og Delmenhorst. Vor serlegur Godvilie fyrerfram̃. Af þvi þar um̃ hefur fyrer Oss allraunderdánugast talad vered, ad þaug Jslendsku Log ei gefe Barnabornum á Módurinnar sidu rett til ad erfa þeirra Módurfodur eda Módurmódur i þeirra burtdaudu Módur stad, so lenge sem nockur epterláten Egtaborn lifa, sem eru einum lid nær i Erfda Línunne; Og Vier allranádugast siáum ad þad er sannsýnelegt, ad sú Arfgánga, sem ad ollu leite

er

er grundvollud á því Náttúrlega Logmále og Sañgirne, og er innfærd í Vor Donsku- og Norsku Log, ege einnin ad gilda í Voru Lande Islande. So viliumt Vier í því Tillite her med Allranádugast tilskipa og bífala, ad einn og serhvor á Voru Lande Islande her epter og frá Nýáre 1770 ad reikna, skal Allraunderdánugast halda sig, í því Efne um Arf, Arfgaungu, og Arfaskipte epter því, sem þar um er fyrerskrifad og fastsett í Vorra Norsku Laga 5. Bókar 2. Capitula. Þar epter þú átt þier Allraunderdánugast ad hegda og þessa Vora Allranádugustu Forordníng ad auglýsa fyrer Yfer- og Under-Rettum so og odrum Vidkomendum á nefndu Islande, so ad þeir Allraunderdánugast epter Henne life og breite; bífalande þig Gude, Skrifad á Voru Slote Christiansborg í Vorum Konúnglega Adseturs-Stad Kaupenhöfn d. 17. Febr. 1769.

Under Vorre Konúngl. Hende og Signete

CHRISTIAN

(L. S.)



# Norsku Laga
## V. Bókar II. Capitule
# Um̃ Arf og Skipte.

### I. Art.

Þegar einhvor vid daudañ fráfellur og lætur epter añadhvort *) Ominduga, edur Fráverande, edur Utlenda, edur aungva

A Erfi=

*) Epter Islendskum Løgum vilia sumer reikna Omaga aldur til þess 15. Ars epter N. B. H. K. Kaupab. 2. C. edur til þess 16. epter Erfda 22. C. Eñ í fyrra stad nefner útþrickelega Fiárhaldsmañ Omagans ɔ: Tutorem; og í hinum sídare stad talar eginlega um Forlags=eyrer, sem skal ætla Omaganum þar til hañ er 16. vetra, þá er hañ Matlauna=Madur. Eñ Framf. B. 4. C. sýner ad hañ er ei úr Omead fyrr eñ hañ er 20. vetra og þángad til á hañ ad hafa Fiárhaldsmañ ɔ: Tutorem; eñ af

Erfíngia; þá skulu þeir, sem i þvi Húse eru,

af Curatore sem vel kañ kallaz Ráda eda Forrádamadur (slá nefndañ Cap.) til adgreiníngar frá Fiárhaldsmanne eda Tutore, vita þaug Íslendsku Løg ei so greinelega; því þad sem umtalar Kaupa b. 10. C. uñ Konu sem má selia hvorium hún vill sókn sína og Vorn, þá meinaz þar eginlega Umbodsmadur ɔ: Mandatarius; sama er uñ þañ, sem af Lande fer Arfat. 24. C. Og sama kyns sýnez vera þad Fiárhald eda Fiárforræde sem umtalar Framf. B. 4. C.

Hvort Kona 20. vetra se úr Omegd epter Íslendskum Løgum er añad Spursmál, þó sýnez þad eflaust um Ekkiu, því gifta má hún sig siálf utan Frænda rád. Kv. g. 1. 2. C. og siálf utvega ser Umbodsmañ epter Kaupab. 10. C. Eñ med því Mær má hafa Fiárhald Bródur síns Kv. g. 3. C. og Arfat. 20. C. og má hafa Forræde Fiár síns þá hún er 20. vetra gømul Kv. g. 2. C. so er allt þad sama uñ hana eins og uñ Karlmañiñ, ad hún er þá myndug; þó qveda ei þaug Íslendsku Løg her frekar ad eñ so, ad þad sýnez mikid komed under næsta Ráúnga Sambycke uñ Fiárforræde heñar bæde fyrer sig og adra; og ad vísu á hún nú á tímum ad hafa Rádamañ eda Curatorem.

Epter Norsku Løgum kallaz sá Omindugur í þessum stad sem er yngre eñ 18. vetra. 3. B. 19. C. 34, 38. A. þadan af er Hañ Myndugur og á ad hafa Tilsiónar eda Rádamañ

epter

eru, hvar þess Burtdauda Góds og Egur fiñaz, strax gefa sama stadar Yfervalde andlegu edur Veraldlegu þad til vitundar *) under tilbærelegar Sekter; og skal Yfervaldid vera strax skyldugt **) ad hafa tilhlutan ad láta forsigla í Erfíngia og Frænda Vidurvist, sem þá geta nærre vered, þad Góds, sem þeim burtdauda tilheyrde og setia þad í góda geymslu, fyrer utan þad, sem þarf til þess Burtdauda Utfarar og til Búsins ef Hañ Bú helt; hvad þó allt-



epter nefndum 34. A. Þó kallaz eiñ í Norsku Løgum Omindugur í vissum tilfellum þar til hañ er 25. Ára, so sem 1. B. 21. C. 13 A. og 5. B. 3. C. 14. A. Epter sømu Laga 3. B. 19. C. 38. A. verdur Mær edur Kona, utan hún se Eckia, alldrei Mindug.

*) Her vid liggia Peninga Sekter utanlands; her í lande er þad ei í venin leidt, og er stundum óhægt vid ad koma; eñ ef nockur findez ad hafa órelega medfared þá epterlátnu Fémune hins dauda, þá straffaz Hañ epter Atvikum.

**) Ved deres Middel segia Norsku Løg þad hefe Eg útlagt: Ad hafa tilhlutan umm. Þetta má eginlega her i Lande skilia um Hreppstióra, sem epter Forord. af 3. Júníi 1746 kallaz Syslumañaña Medhiálparar eins og í Løgunum Rettens Middel kallaz Rettarins Þienarar.

saman skal uppskrifaz og virdaz og þeim sem í húsinu eru afhendaz, sem þar á skulu sídan standa skil og reikning.

## II. Art.

Er Bónde eda Húsfreyia daud og hafa epterláted Born til samans, og þad burtdauda á eingin ser í lage Egtaborn epter, þá má sú epterlátna Persónan sitia í búinu til þess þrítugasta dags, og þarf þá eí slíka Forsiglíng ad giora, nema þar siñez stórar og miklar Skulder; því þá skal búid forsiglaz.

## III. Art.

Ad þañ þrítugasta dag skal búid af Rettarins Þienurum og þeim mindugu nærverande Erfíngiuñ og *) þeirra Omindugu og Fráverande Fiárhaldsmoñum og Frændum rett uppskrifaz, og af medfylgeslausum Persónum løglega virdaz, so og allt Iñgiald og Utgiald, so miked sem vitanlegt er rettelega uppteiknaz.

IV.

*) Her af er audsed ad þeim ómindugu á ad setiaz Fiárhaldsmadur, iafnvel iñan þess þrítugasta dags, sem þeirra vegna gete vered vid Búsins Uppskrift og Virdíng.

## IV. Art.

Eru Erfíngiar iñan Býs þá skulu þeir mæta í Sterbbúinu á þrítugasta dege epter Fráfall þess dauda. Eru þeir utan Býs* og iñan Stigtes þá skulu þeir koma iñan sex vikna. Eñ eru þeir utan Stigtes, þá kome þeir iñan tólf vikna. Eñ eru þeir utan Ríkes, þá hafa þeir Ars og dags frest, sem er eitt Ar og sex vikur. Og skal samastadar Yfervald vera skyldugt ad** gefa

A 3

*) Her er nú Prentvilla, þá ad er gád í Løgunum sem segia: Ere de uden By og Stigtet i stadiñ fyrer i Stigtet, sem bæde sez af því eptersylgiande hvar þad kemur aptur fyrer. End ere de uden Stigtet, so og af samburde vid þau Dønsku Løg sem segia:] Ere de uden By og i *Provincien*.

**) Utanlands er þad venia ad iñkalla alla Hlutadegendur til Sterbbúsins med Proclama; þó ætla Løgin eí til þess utan um Skuldaheimtumeñ 5. B. 13. C. 27. A. Eñ sama gilder her í Lande og hefur brúkad vered ad lýsa vid Løgþinges-Rettiñ andláte þess Fráfallna og iñkalla Skuldaheimtumeñina; og láta þad koma út í Alþinges-Bókiñe, sem þá bæde gilder fyrer Proclama og Lýsíng í Avisurunum sem brúkud er utan lands. Sømuleides er og alment her ad lýsa Arfe í Alþinges-Bókunum. Uñ Skuld-

gefa slíkum fiærverande Erfíngium þad til vitundar uppá Sterbbúsins kostnad strax sem því af Vidkomendum er til kynna gefed, hvorier og hvar þeir eru, sem erfa ega.

## V. Art.

Koma Erfíngiar ecke í retta tíd, þá setur Yfervaldid Arfiñ í geymslú hiá fullvedja Moñum, so sem þad siálft vill tilsvara. Eñ þad af Lausafe, sem med tímanum kañ audveldlega skeñaz *) þad skal Yfervaldid strax láta giora ad Peníngum Erfíngiunum til besta.

## VI. Art.

Koma sumer af Erfíngium, eñ sumer vegna loglegra forfalla koma ecke, edur þeir vita þad eí iñan þess tíma, sem þeir áttu ad mæta,

---

Skuldameñ Sterbbúsins er alt añad; því vilie þeir eí gódviliuglega mæta í Sterbbúinu, tapa þeir aunavu, eñ ega ad sækiaz hvør á sínu Varnar-þinge.

*) Þetta skedur útanlands vid Auctioner, sem her í Lande eru eí algengnar; munde her því verda ad gánga epter Virdíngüñe, sem giørd er þá Búid er uppskrifad.

mæta, þá skal' Yfervaldid fá *) vissum Moñum hlut þess Fráverande sem er í Lausafe, til ad vígsla honum í Penínga og þá á Rentu setia; Eñ Jardagóds setiez í gódra Maña umsión.

## VII. Art.

Er Erfinge í Kóngsins Erindum þá sæke hañ Arf iñan þriggia vikna epter þad hañ heim kemur.

## VIII. Art.

Eñ er Erfingiñ í aungvuñ Loglegum Forfollum og sókte ei Arfiñ í tíma añadhvort Persónulega eda skriflega, og þad bevísaz ad hann visse ad Arfurinn var fallinn, hafe skada sinn so búinn þó nockud af honum tilfollnum Arfe fargez eda verde óvíst.

## IX. Art.

Er Erfinge so lángt burt utan Ríkes ad hann innan Ars og dags ei getur fenged ad

 vita

*) Þesse Articule útleggur hiñ fyrre og sýner ad Yfervaldid er ei skyldugt til siálft ad snúa Arfinum í Penínga; heldur kañ útnefna þar til góda Meñ.

vita um̃ þann tilfallna Arf og mæta á tilteknum tíma, þá skal hans nánaste fullvedia Frænde, edur ef Hann er eí til þá annar fullvedia Madur af Yfervaldinu þar til skipadur vera vid Skiptin og hans hlut til sín taka og þann geyma og løglega medsÿsla.

## X. Art.

Þad sama er og ef eí er uppvíst hvar Erfínge er.

## XI. Art.

Er eingin rettur Erfínge til innan *) Siøunda Mañs, edur og sá rette Erfínge kemur

*) Ætte epter Íslendskum Løgum ad gánga her, þá er eí so þúngskiled, hvad se hiñ Siøunde Madur; því 13. Erfd kallar þad Fiórmeñíng, sem er hiñ Siøunde frá þeim dauda (siá Tyro juris; pag. 103. samanbored vid pag. 91.) Eñ epter þeim Norsku Løgum er þar meire vafe á. Eiñ nafnkiendur Hálærdur Madur á þessum døgum hefur skrifad um̃ þad hvørt sá Siøunde Madur her skule reiknaz ímed edur inclusive, edur þad skule reikna allt ad hønum, sem kallaz exclusive. Eñ añar eí miña Nafnkendur fyrer Vit og Lærdóm hefur munnlega kent þad ødruvís. Eñ her á mille um̃ þad, hvørt her skule reikna

Siøun

langama langafi,

# Og so uppepter

Uppstigande linna

8 Långafa og -ömu bróder og syster — 5 Lángafe Lángama | 5 Lángafe Lángama — 8 Láng-afa og -ömu bróder og syster

8 ødrum og fiórda (Fiórda) | 7 Fødrfødr og Móðrfødr bróder og syster (Þridia) — 4 Fødrfader Fødrmóder | 4 Móðrfader Móðrmóder — 7 Móðrfødr og Móðrmóðr bróder og syster (Þridia) | 8 ødrum og fiórda (Fiórda)

3 Móder

8 Þridia og fiórda Siøundem. (Sídu) | 7 Ødrum og þridia (Sídu) | 6 Fødrbróder Foðursyster (Onne) | 6 Móðrbróder Móðrsyster (Onne) | 7 Ødrum og þridia (Sídu) | 8 Þridia og fiórda Siøundem. (Sídu)

2 Fader

8 Fiórmenn-ingar (lína) | 7 Prímenn-ingar (lína) | 6 Syskyna børn (Sídu) | 3 Bróder. (Syrsta) | Sá Burtdaude (Nidur) | 3 Syster. (Kyrsta) | 6 Syskyna børn (Sídu) | 7 Prímenn-ingar (lína) | 8 Fiórmenn-ingar (lína)

8 Fiórda og fimta | 7 Þridia og fiórda Siøundem. | 6 Ødrum og þridia (lína) | 3 Bróðrsonr e. dótter (Sídu) | 1 Sonr. Dótter. (lína) | 3 Systrsonr e. dótter. (Sídu) | 6 Ødrum og þridia (lína) | 7 Þridia og fiórda Siøundem. | 8 Fiórda og fimta

8 Fiórda og siøtta | 7 Þridia og fimta | 6 Ødrum og fiórda | 3 B.S Sonr e. dótter (lína) | 1 Sonarsonr e.S.dótter (ambe) | 3 SystrS. S. e.dótter (lína) | 6 Ødrum og fiórda | 7 Þridia og fimta | 8 Fiórda og siøtta

8 Fiórda og siøunda Siøundem. | 7 Þridia og siøtta | 6 Ødrum og fimta Siøundem. | 3 B.S.S. S. e.dótter | 1 Sonarsonar S. e.dótter. (lína) | 3 SystrS.S. S. e.dótter | 6 Ødrum og fimta. Siøundem. | 7 Þridia og siøtta | 8 Fiórda og siøunda Siøundem.

7 Þridia og siøunda Siøundem. | 6 Ødrum og Siøtta | 3 B.S.S.S. S. e.dótter | 1 S.S.S. S. e.dótter | 3 SystrS.S.S. S. e. dótter | 6 Ødrum og Siøtta | 7 Þridia og siøunda Siøundem.

6 Ødrum og Siøunda Siøundem. | 3 BSSSS. S. e. dótter. og so affram. | 1 SSSS. S. e.dótter. og so affram. | 3 SystrSSSS. S. e.dótter. og so affram. | 6 Ødrum og Siøunda Siøundem.

NB. Tablan høyrer til pag. 9.

NB. Tablan høyrer til pag. 9.

ur eí í fimtán Ar, þá heyrer Arfurinn
Aſ Kóng-

Siöundamañ epter Civil (Borgarlegum) edur Canoniſkum [Páfalegum edur gömlum Kyrkinlaga] Máta. Til þeſſ ad þetta verde ſkiled, er naudſynlegt ad þeckia hvørn Reikníng fyrer ſig, og ſo Frændſemes Línurnar, ſem epter Norſku Løgum til Arfs ná, gefur þad og góda Upplýſíng í epterfylgiande Erfdum, og þar til má brúka med fylgiande Töblu.

Af Töbluñe er þad audſed, ad epter Norſku Løgum ná eí utan fiórar Sídulínur til Arfs N. L. 1. Syſtkyne þeſſ Fráfallna og þeirra Affomendur ſo lángt ofanepter ſem til eru. 2. Þeſſ Fráfallna Födurſ og Módur Syſtkyn og þeirra Affomendur til Siöunda mañs. 3. Afa og Ømu Syſtkyn og þeirra Affomendur til Siöundamans. 4. Lángafa og Lángømu Syſtkyn og þeirra Affomendur til Siöunda Mans. J fiærlægre Sídulínum ná aungver til Arfs epter N. L. Til dæmes: Hvørke Lángafa Födur edur Módurbróder ne neiner af þeirra Affomendum; því þeir eru í hiñe fimtu Línu; þó hefur og ſo her útaf Mál erded.

Eñ miſmunuriñ á millum Civil og Canoniſks Reiknings á Skildſeme er í ſtuttu máli þeſſe. J Upp- og Nidur-ſtígande Línu er Reikníngurinñ í bádum allur hiñ ſame: **þar er hver perſóna ſer umm Lid.** ſo ſem: Sonur. 1. Lidur. Sonar Sonur 2. Lidur. Sonar Sonar Sonur 3. Lidur og ſo framveges. Eñ í Sídulínunum er miſmunuriñ. Epter Civil Reikninge teliaz: **eins margar perſonur eda Menn eins og Lider eru í bád-**

**um**

Kónginum til *) hvada Forfall, sem hann kann

um Línunum ad Forfødurnum ótøldum. Til dæmes: J ødrum og fimta, þridia og fiórda Lid teliaz Sio Persónur edur Meñ. Eñ epter Canoniskum Reikninge er eí taled utan í añarre Línuñe, og alltíd í þeirre sem lengre er ef þær eru misláñgar. So ad: **So marger Lider sem eru frá Forfødurnum í lengre Línunne ad hønum óreiknudum so margar persónur edur menn.** Til dæmes: Ødrum og Siøunda, Þridia og Siøunda, Fiórda og Siøunda telz eí meir eñ fyrer Sio Meñ eda Persónur. Þeir sem nú vilia láta Erfder gánga epter Civil Máta færa þad til síns Máls, ad þad se algengnara hiá ødrum Þióðum, og þar næst ad þeir sídustu Erfíngiar sem Norsku Løg nefna Art. 51 **Lángafa bródurs barnabørn** seu **Siøunde Madur.** Þetta er satt, og þar fyrer utan sez af þessum Art. ad Siøunde Madur reiknaz þar í med edur inclusive; Eñ hvar fyrer skylde þá þesse Art. leggia þetta Atride til: **og so frammveges ofanepter til Siøundamans epter þann dauda.** Þetta Atride, so vel sem hitt, ad Norsku Løg reikna þá Forbodnu Lide í Egtaskap epter Canoniskum Máta, færa þeir til síns Máls sem vilia skilia þá fyrer Siøundamañ sem eru Ødrum og Siøunda, Þridia og Siøunda, Fiórda og Siøunda. Eg vil láta þetta so vera og hvørn ráda siñe Meining.

*) Þetta verdur þó ad skiliaz epter þeim 8. Art.

því

kann ad frambera, so framt Hann er á lífe. Enn ef Hans Samerfíngiar bevísa ad hann er daudur innan þeirra fimtán Ara, þá fellur hans hlutur hans Samerfíngium til.

## XII. Art.

Seger Húsfreyia sig ad vera med barne epter Bónda sinn daudann, þegar Búid á þeim þrítugasta dege er uppskrifad, þá má Hún sitia í þvi óskiptu í tuttugu Vikur. Sídan skulu gódar Konur skoda og ransaka, hvort Hún er med barne edur ecke. Finna þær ad Hún er med barne, þá situr Hún framveges í búinu til þess barnid er fædt. Fædez barn so laungu epter Bóndans dauda, ad vel kann prófaz og ransakaz ad þad se ei þess burtdauda Bóndans barn, þá svare og betale Hún aptur, fyrst þad sem Hún tók edur feck af búinu frá þeim þrítugasta dege epter Húsbóndans dauda, og take sídan ei meir enn hennar rette Arfahlute kann ad vera. Hitt annad take Bóndans rettu Erfíngiar, og Hún straffez þar fyrer

þvi þau tilfelle kuna ad gefaz ad Erfíngin gete ómögulega ordid þess vís ad Arfurin se fallin.

fyrer utan epter Logunum. Og medan Hún þann veg situr í óskiptu Búe, skulu Bóndans rettu Erfíngiar med gódum Mønnum af Hennar Frændum hafa tilsión med, ad Hún ei óþarflega nockru úr Búinu burtsóe, edur afhende þad sem Henne ei siálfre tilheyrer; því Hún má eckert selia edur afhenda, utan fyrer Hennar og beggia þeirra barna fæde og forsorgun og so til fædes og launa handa Vinnufólkinu, hvad þó á ad ske med Yfervaldsins vilia og samþicke.

## XIII. Art.

Einginn Eckiumadur edur Eckia má inngánga nýhann Egtaskap, fyrr enn þar eru giord rett Skipte vid þess burtdauda børn edur Erfíngia.

## XIV. Art.

Þegar skipta skal, og búed er rett ad uppskrifa og virda Búid, sem sagt er, þá skulu fyrst, ádur nockur má erfa, allar þær Skulder, sem út ega ad svaraz, og rettar finnaz, betalaz af Búinu sameginlega; fyrst af Bú-peníngum og Lausafe, so miked sem þad tilhrockur, sídan af Jord og Fastagódse

se ef lauser Aurar ei tilhrockva, hvoria þad Epterlifande má til Skuldabetalíngs til sín taka, ef þad þess beidez og samegenleger Erfíngiar taka þad til þess trúanlegt. Annars mega Erfíngiarner og þeirra Fiárhaldsmenn med Rettarins Þienara ráde og fulltynge láta úte af Búinu til serhvors Skuldaheimtumans, sem þess beidez fyrer þad sem Hañ bevíslega og sannsynlega heimter, fyrst af Lausafe og sídan af Jardagódse. Þó skal einginn Skuldaheimtare, sídst, sá sem hefur retta Handskrift uppá sína Heimtu, neydaz til ad taka á móte nockru slíku útsvare, ef hann vill láta sína Skuld standa hiá Erfíngiunum, og þeim til hennar trúa.

## XV. Art.

Þegar Skuldirnar eru þannveg, sem sagt er, afteknar, edur Erfíngiarner taka þær ad ser, þá skal þad sem epter er í Búinu frómlega skiptaz, mille Erfíngianna; og skírer Lódsedlar gioraz uñ þad, sem hvor á ad hafa af búinu; og so er tilbúed eitt fullkomed rett Skiptabref, hvar í innfæraz skal bæde Uppskrift og Virdíng med Inngialde og Utgialde og því sem þá er epter

í búi-

í búinu, so og Lódsedlarner, (Sluta Skiolin) Og skal Skiptabrefed af Erfíngiunum eda þeirra Frændum og Fiárhaldsmonnum ásamt med Rettarins Þienurum underskrifaz, og forsiglaz.

XVI. Art.

Yfervaldid skal hafa kostgiæfna tilsión med, ad í Skiptum allt Christelega og rettvíslega framfare á allar sídur, nema þad vilie þar fyrer í rette standa, ef nockud fyrer þess vanrækt med þess Vitund finnz óløglega medhondlad. Enn seu Erfíngiar aller minduger og nálæger, þá á Yfervaldid ser þar eckert af ad skipta nema þess se af því bediz.

XVII. Art.

Eingenn * Skiptaforvaltare má í Skiptabrefinu dæma nockurn til ad betala nockud nema

---

*] Her í lande þarf ei um̃ þad ad villaz hvør se Skiptaforvaltare. J Norege voru Amtmen̄irner þad til forna en̄ nú Sórenskrifararnir, í hvørra stad her eru Sýsslumen̄irner; þó á Amtmadur ad hafa tilsión med þeim. Forord. af 19. Aug. 1735. Epter Geistlega oa þeirra Eckiur, sem aungva verdslega handteríng brúka skipter Herads-Prófasturin̄ me. tveimur Prestum.

nema Skuldamadurinn stande under hans Rette og heyre under hans Logsogn.

## XVIII. Art.

Epter því Skiptabrefe, sem Erfingiar siálfer mille sín giora, kann einginn ad sækia Skulder eda sækiaz fyrer Skulder, nema Hann siálfur, edur Hanns Umbodsmadur hafe þad underskrifad, eda Skuldamadurinn siálfur edur Hanns Umbodsmadur gánge vid Skuldaheimtunne fyrer Skiptaforvaltaranum, * um hvoria hann á þó ad sækiaz á sínu Varnarþínge

## XIX. Art.

Ega Bónde og Húsfreyia born saman, og annadhvort þeirra vid daudann fráfellur, þá, epter ad Skulder af Búinu til samans eru betaladar sem sagt er, skiptaz allar

*] Af þessum, sem og næst fyrerfarande Articula er audséd, ad þad er til lítels ad innkalla í eitt Sterbbú Skuldamenina [Debitores] iafnvel ad þad se almen venia utanlands; því vilie þeir ei siálfkrafa og góðviliuglega mæta, gilder slík Innkollun ecke t; heldur verda þeir ad sækiaz á sínu Varnarþinge, og eru þeir ei skyldnger Dom ad þola af Stipta-Rettinum framar en þeir vilia.

allar þær Egur, sem þá eru epter, Búpeníngar, Lausafe, Kaupstadargóds, Jardagóds, Kaupagóds, og Odalsgóds í tvo iafna parta mille þess Epterlifanda og samegenlegra barna. * Þó erfer þad Epterlifande af epterlátnum Egum auk síns Helmings ** einn bródur-hlut. Enn ef þad Epterlifande gifter sig aptur, þá skal sá Bródur

*) Her um̃ skal nockud tala vid næstfylgiande Articula.

**) Þar um̃ hefur orded ágreiníngur hvørt sú Epterlifande Persónan fær þen̄a bródurhlut til egnar, edur einasta ágóda. Sumer fylgia því fyrra og segia ad þetta atride: þad Epterlifande NB. erfer, gefe til kynna fullan̄ Egnar rett edur Dominium plenum. Þar fyrer utan færa þeir til dæmes: Ef ein̄ Madur deyr og epterlætur 3. børn og sídan deyr eitt þeirra ádur en̄ Móderin gifter sig aptur, ad ef Móderin hefde alleina haft ágóda rett til bródurhlutans so mætte hún heimta Arf í sama bródurhluta epter sitt barn epter 36. Art. En̄ med því þad burtdauda barn hafde aldrei egnaz þen̄a bródurhlut, so getur Móderin eckert af því til erfda heimtad, og af þessu álykta þeir ad Hún se fullkomen Egande ad þessu bródurlóde. En̄ þar eru adrer til sem neyta Módurin̄e um̃ fullkomen Egnar rett yfer þessum Bródurhlut, og færa epterfylgiande tilfelle til dæmes: Sempronius deyr

og

ur hlutur sem þad so feck hverſva aptur til
B barn=

og epterlætur ſer 4. børn med ſinne Konu Titia. Hún ſkipter med børnum ſínum, tek= ur helmínginn af búinu enn aungvann bróðurhlut. Sídan gifter hún ſig aptur Cajo og á med Hønum ogſo 4. børn. Cajus deyr og Titia ſkipter enn med børnum ſínum epter ſídare Manninn, og auk Helmíngsins tekur Hún nú ogſo bróðurhlutinn. Loksens deyr Titia og nú ega hvørutvegge børnin ad erfa Hana. Børnin epter fyrra Manninn heimta helmíng af arfinum; enn Børnin epter ſídare Manninn vilia fyrſt hafa bróðurhlutinn ſem Hún tók af þeim, enn ecke hinum, ádur enn ſkipt er í helmínga. Eg held þaug hafe rett og ege ad fá ſinn bróðurhlut, því annars væru **Løgin ei eins iafnadar=ſøm og eins bæreleg fyrer alla;** heldur hefdu þau fyr= re børnin Abata enn hin ſídare Skada þvert á móte því, ſem ſtendur í Laganna Fore= mála, og ſo því ſem 16. Art. ad framan ſkip= ar. Ef Móderin hefde nú haft fullkomen Egnarrett yfer þeſſum bróðurhlut, ſo var þad under ſama Skilmála og Helmínguriun ſem Hún feck; ſo áttu ſídare børnin ſamt ei meira af Arfinum heldur enn fyrre børnin, og ſo þurfte Hún þar aungvu aptur af ad ſkila þó Hún hefde gift ſig í þridia ſinn, enn bróður= hlutnum átte Hún þá aptur ad ſkila, hvar af fylger, ad Hún hafde ei ſo ſterkann Egnarrett yfer því, ſem yfer Helmínginum. Enn þar af fylger ei ad einn ſe Tiltale underorpenn

þó

barnanna. Vill þad Epterlifande behalda Høfudgardinum med tilliggiande Jardagódse og Herlegheitum * sem þad innførde í búid, þá Hann og Hún komu í Egtaskap saman, þá má því eí meinaz ad leysa þad til sín frá bornunum epter Sannsýne og epter Samfrænda gódu Samkomulage.

## XX. Art.

Ega Bóndeog Húsfreyia eingin born saman, þá er leyst, þegar annadhvort þeirra vid daudan fráfellur ** því Epterlifande ad gánga

þó Hañ fare illa med þann bródurhlut sem hañ hefur þannveg fenged, því Egnarrettur eins hlutar kann ad vera meira og minna friáls og þó eí ad øllu leite.

*] Mer skilz ad sú Epterlifande Persónan fáe eí Høfudgardin med tilliggiande Jardagódse og Herlegheitum, nema sú hin sama háfe þad átt þá Hún Egtaskapin inngeck; enn hafe sú burtdauda Persónan átt Høfudgardin med tilliggiande, þá muun børnin ega þad ad hafa, og siálssagt um Stiúpbørn ef þaug eru nockur, serdeiles ef þad er Odal.

**] Uñ þennan Articula, sem og næst undangángande, og nockur atride í þeim epterfylgiande verdur Spursmál; hvørt þeir kunne heima ad ega her í lande. Med því her talar uñ hvørnen arfe epter daudann Mann ege ad skipta

gánga til ſafnra Skipta og Sundurdeil-


ta, ſo mun ſumum ſýnaz ad þeſſe Articule eins og adrer, ſem þar um hönd la ege her fyrer Løg ad gilda epter Forordníngunne af 17. Feb. 1769. og því má eí heldur neita, ef eingiun annar giørníngur fyrerbygger þad. Enn adrer munu ſvara, ad þeſſe Articule aftake eí þá Skyldu ſem flýtur af einum Løglegum Samnínge eda Kaupmála, eí heldur fyrerbióde Hann ſlíkan Samníng eda Kaupmála ad giøra. Og med því øll Kaupmála bref her í lande áqveda víſt, hvad hvørt Hiónanna ege edur egnaz ſkule, þá til Skipta kemur, ſo ege epter þeim Giørnínge ad gánga epter N. L. 5. B. 1. C. 2. A. Sú orſøk, ſem Forordníngin ſiálf med ſer ber, hvar fyrer Hún ſe utgeſen, ſýnez og áviſa ad eí nác Hún til Fiárſkilmála Hióna og ege þeir því framveges ad giøraz epter Iſlendſkum Løgum. Og med því Eg merkt heſe ad aller haſe eí ſama Skilníng og ſumer aungvann á ſumu af því, ſem Vor Løg þar um ſegia, vil Eg í ſtuttu mále geſa þar um Upplýſíng.

1. Er Mále edur Heimanfylgia móte Tilgiøf, ſem er hinn helſte og beſte Fiárſkilmále mille Hióna. Málinn ſkal úttakaz fyrr enn adrar Skulder af Sterbbúinu ſaſnt med Kóngs Afgiſtum og Omagafe. Þeſſe Fiárſkilmále er ómiſſande til ad frelſa Konuſe frá bóndaud Oſvilnn edur ødru Miſsfelle, ad Hún eí med børnunum ad Hønum daudum, þurfe ad gánga á Vonarvøl. Hann er því ſídur á móte Norſku Løgum, ſem Menn finna þar hans fullkomnar Meniar, ſo ſem N. L. 5. B. 3. C.

íngar vid Erfíngia á ollu Búsins Lausafe og Jardagódse. Vill sú epterlifande Persónan þad ecke, þá á Hún ad svara út til Erf-

C. 31. A. Confr. N. B. E. K. Kv. S. 3. C. Item N. L. 5. B. 3. C. 44. A. 2. Er Felag. Þad er þreñslags a) Felag serílage so kallad, þá viss tala er á høfd hvad miked hvørt leggur til. Til dæmes: Hún telur ser 30 Hundr. enn Hann 20 Hundr. þá skal þad hióna meira upptaka sem meira lagde til Felags ꝛc. Kv. S. 3. C. so ad ef Hann deyr fyrr enn Hún, þá tekur Hún fyrst 10 Hundr. af óskiptu, sídan Helmínginn, ef Fe hefur eckert aukez edur þad hefur þverrad; enn hafe þad vaxed til dæmes uñ 15 Hundr. þá fá Erfíngiar bóndans fyrst 20 Hundr. og Hún eins miked; sídann fá þeir tvo hlute afla, þad eru 10 Hundr. enn Eckian einn Þridiúng, þad eru 5. Hundr. Þetta Felag er hid løglegasta og náttúrlegasta, þó nú se møg so komed úr veniu. b) Er Helmínga felag epter N. B. E. K. Kv. S. 3. C. sem nú er alment í veniu, iafnvel þar sem óiafner ad efnum í Hiúskap samankoma; enn þad er á aungre Sanngirne byggt þá so er, og horfer til Arssvika vid Erfíngia. c) Loksins er Ørega felag. Kv. S. 4. C. þad er nú ogso alment í veniu og uppsett strax á giftíngar dege, sem þó Løg ecke tilætla; heldur hinns, ad Hiónin mege giøra Felag sitt sídar. Og er því eingin þørf ad innfæra Fiárskilmála í Egtaskapar Contractinn á Giptíngar dege

Erfíngianna þremur fiórdu Portum, af því, sem sú burtdauda Persónan hafde í Búid innfært, hvar med Erfíngiarner skulu láta ser nægia. Og so ad rett verde vitad, hvad sú burtdauda Persónan hafde í Búid innfært, þá skal þad bevísaz med skíru og sonnu Brefe og Uppteiknan, sem af þeim bádum í þeirra Velmagt underskrifud og innsiglud er, og med tveggia í hid minsta næstu Samfrænda Hondum og Signetum stadfest, hvad sú burtdauda Persónan þá Hün Egtaskapin inngeck, í Búid innfærde, edur sídan med Arfe, giof edur í annan máta odlaz hefur. *)Vill þad Eptertlifande halda Hofudgardinum med tilliggiande Jardagódse og Herlegheitum, þá er því leyst ad útleysa Hann af Erfíngiunum epter Sannsýne og gódra Manna Samkomulage, ef þad er eí Odalsgóds, sem þeir rettu Erfíngiar annars hafa rett til ad innleysa.

 XXI.

dege ef eí er Mále. og þó má málakona eí synia Bónda sínum Felags Kv. G. 3. C. Yfer høfud má þad segia, ad þau Norsku Løg eru meira hlynt þeirre Epterlifande Persónunne; enn þau Islendsku miklu skilmerkelegre um Fiárskilmála, og greinelegre í því ad afstýra øllum Arfsvikum og Eydslu á Konuse.

*) Her mun underskiliaz þad sama Atride sem í næst fyrerfarande Articula.

## XXI. Art.

Enn deyr bæde Bónde og Húsfreyia strax hvort epter annad, ádur enn þad sem leng ur lifer hefur loked Skiptum, og giort sig laust epter fyrrskrifudu vid Erfíngia þess sem fyrre dó, þá kemur allt búid til iafnra Skipta millum Erfíngia beggia, so framarlega, sem þad eí med skíru og sonnu brefe og Uppteiknan bevísaz, hvad hvort þeirra í Búid innfærde; því þá ega serhvors Erfíngiar ad láta ser nægia med þad, sem hvort þeirra hefur í þann máta innfært í Búid. Finnez þad, ad annarhvor Hlutadegenda hafe móte Logum giort Uppehald í Skiptunum, þá á sá ad svara Naderfíngium til þess Skada, sem þeim hefur hlotnaz af slíku óloglegu Uppehalde.

## XXII. Art.

Vill Bónde eda Húsfreyia breflega gefa annadhvort odru nockud af þeim Egum, sem þad hefur í Búid innfært, þá skal þad ske epter því, sem um̃getur her epter í * Fiórda Capitula um̃ Giafer. XXIII.

*] Þar seger í 3. Art. ad hvorugt mege odru neitt gefa án Erfíngianna Samþickes; Líklegt er

## XXIII. Art.

Tilfellur Bónda eda Húsfreyiu nockur Arfur, epter ad þau komu saman í Egtaskap enn er þó eí í búid innkomin ádur enn annadhvort þeirra vid daudan frásellur; * þá skal same Arfur innfæraz, þegar allt búid á ad skiptaz, eda búsins Skulder ega ad betalaz. Slíkt hid sama er, þó odrum nockur Arfur tilfalle og þeir deye fyrr enn Arfurinn er í búid innkominn.

## XXIV. Art.

Nær Búid skal skiptaz, og þad tilhrockur og aller Skuldaheimtumenn geta fenged sitt, **] þá tekur sú Epterlifande Persónan fyrst af því, sem yfer hefur skulder í búinu so miked til sinnar Jardarfarar, sem sannsýne-



er ad þesse Articule meine til: Ef þad sem burt vill gefa á onnur Børn enn vid því sama. Enn þetta nær uñ sian ecke heim her hiá oss; Því í þessu efne á ad gánga epter Islendskum Løgum. Siá Tyro juris 2. B. 10. C.

*) Þetta nær heim þar sem Felag er mille Hióna enn eí þar sem Máле er.

**) Þetta er sanngiarnlegt þar sem Felag er Hióna í mille enn sumer munu eí viliaz láta þad ná til Mála-Konu.

skynelega hefur vered kostad uppá þess Burt-dauda Jardarfor.

## XXV. Art.

J þessu tilfelle heldur og Húsfreyian sinne* Festargiof edur Morgungiof, sem skal betalaz af þeim hlut, sem Bóndans Erfíngium tilfellur, so framt sem Hún vill afsala ser þann Bródurhlut, sem henne epter Bóndann er tillagdur

## XXVI. Art.

Hrocktur Búid eí til þá misser þad Efterlifande Jafngildes fyrer Utfarar Kostnadinn og Húsfreyian sína Festargiof edur Morgungiof.

## XXVII. Art.

Eingin Eckia má epter dauda Bónda síns skipta ser af Búsins Egnum Inngialde edur Utgialde, fyrr eñ logleg Skipte eru halden.

XXVIII.

*] Juristarner kilia Festargiøf fyrer þá giøf, sem Bidillinn gefur sinne Kiærustu.

## XXVIII. Art.

Arfur á ad framgánga medan Afkomendur eru til, og so lenge Born og Barnaborn eru til ofanepter, þá erfa ei Foreldrar eda Forfedur uppepter.

## XXIX. Art.

Mans Persóna tekur *) tvo Hlute, enn Qvenn-Persóna þar á móte einn í øllum orfum.

## XXX. Art.

Egtabarn tekur Arf epter Fodur edur Módur, ef þad fædez lifande og **) verdur skírt enn annars ecke.



*) Þó nær þetta ei allstadar heim; því 1. fær Hálfbróder ei meir eñ Alsyster Art. 36. 2. Laungeten Sonur, sem teken er til Egta og Ettar [lýstur í Kúld og Kiøn] fær ei meir enn Egtafædd Dóttur. Art. 71. 3. Konan erfer Bródurlód epter Mann sinn. Art. 19. 4. Bródurlód epter Barn sitt ef Bróder er til Art. 36. 5. Jafnt vid Mann sinn Son og Stiúp Son Art. 52. 6. Þá Børnum samegenlega er gefed eda Testamenterad nockud og ei tilteked hvad hvørt skule hafa, þá fá øll iafnt hvørt þaug eru Kallkyns eda Qveñkyns.

**) Þetta Atride: verdur skírt, sýnez í fliótu bragde

## XXXI. Art.

Verdur Agreiníngur um hvort Barn var lifande fædt og skírt; Item hvort Fader eda Móder lifdu lengur enn barnid, eda þad lengur enn þau, þá á slíkt med trúfostum Vitnum ad bevísaz.

## XXXII. Art.

Egtaborn eru þau, sem fædd eru af þeim Foreldrum, sem eru egtavígd saman; iafnvel þó þau seu fædd ádur enn Foreldrarner komu saman í Egtaskap.

## XXXIII. Art.

Þad skal og haldaz fyrer Egtabarn, sem fædt er af Festa-Fólke, ef þad hefur vered trúlofad

bragde eí hafa miked uppá sig, enn er þó vigtugt ef til vill. Til dæmes: Ein Kona, sem eingin ønnur Børn á med Manne sínum, deyr af Barnsførum og Barnid deyr einnin. Deyr Hún nú fyrr enn Barnid og Barnid verde skírt og deye sídan, þá erfer Barnid Módur sína, og so erfer Faderinn aptur Barnid; enn deyr Barnid óskírt, so nær þad eí til Arfs epter Módurina og so misser Faderinn Arfinn, og verda þá Frændur Konunnar Erfíngiar. Því er þad eí einasta Himnaríkes vegna, ad Børnin ega sem fyrst ad skíraz; heldur rídur þar og miked á í Arfaheimtum.

trúlofad, og Hiónavígslann dagsett og Brúdguminn deyr ádur, þó med því móte ad þad bevísez og reynez, ad Barnid se geted epter ad Foreldrarner voru af Prestinum trúlofud.

## XXXIV. Art.

Barnabarn, sem elz af Syne edur Dóttur, tekur Arf epter Fodurfodur, Fodur módur, Módurfodur og Módurmódur eins og Fader þess edur Móder skyldu taka ef þau hefdu lifad. Somuleides tekur þess (: Barnabarnsins) Barn medan nockurt er til Arf efter Lángafa og Lángomu.

## *XXX*V. Art.

Eru eí Born eí Barnaborn og so framveges ofanepter þá erfer Fader *) alleinn.

*XXX*VI.

*) Þó undanskilz epter Art. 52. ef Fader er skilin frá Módur fyrer Hórdóm af hans hende, þá erfer Móderin allein Barn sitt. Enn Spursmál hvort slík Móder erfer so allein ad Háls- og Al-Systkyn þess dauda ná eí til med henni? So vilia Juristarner hafa þad ad hún erfe allein ef Faderinn lifer; en se Faderinn daudur, þá gánge Erfdin epter 36. Art.

## *XXX*VI. Art.

Er eí Fader til, þá erfer Móder og Al-edur Hálf-Systkyn; þó tekur Móder eí meir enn eitt hennar Barn, Mañshlut ef Sonur er til og Konuhlut ef Sonur er eí til, og Hálf-Systkyn taka eí utan hálft vid Al-Systkyn.

## *XXX*VII. Art.

Eru nockur af Systkynum daud og hafa epterláted ser Born eda Barnaborn *) þá standa þau í sinna Foreldra stad og erfa med sinna Foreldra Systkynum þann hlut, sem þeirra Foreldrum átte til ad falla.

## *XXX*VIII. Art.

Er eí Móder til eí Systkyn þá erfa þeirra Born **) eins og þaug oll væru Syst-

*) Her kemur nú fram þad Jus Repræsentationis sem Tyro Juris talar um 2 B. 12. C og þar til sigtar Forordníngin af 17 Febr. 1769. ser í lage.

**) Her og í næstfyrerfarande Articula er nú athugande þad sem Tyro Juris 2. B. 12. C. nefner:

Systkyn, * og so framveges ofanepter.

## XXXIX. Art.

Eru nockur af þessum daud, og hafa láted epter sig Børn eda Barnaborn, þá gánga

nefner: Successio in capita, høfdaerfd og Successio in Stirpes ættqvísla edur Knè-runna-erfd. Høfdaerfd nær þar heim, þar sem Erfíngiar eru í iøfnum Lidum; enn Knè-runna-erfd þar sem þeir eru í óiøfnum. Í Nidurstígande Línu gánga Erfder alltíd í Knèrunna hvørt Erfíngiar eru í iøfnum Lid edur óiøfnum Art. 34. Í Sídu-Línunne gánga Erfder í Knèrunna þá Erfíngiar eru í óiøfnum lidum Art. 37. Eñ seu Erfíngiar í iøfnum lidum, þá gengur Erfdin epter Høfdatølu, sem siá má á þessum Articula. Til dæmes: Einn Madur á 2. Syne sem báder eru dauder og ega báder Børn epter, annar 1. Barn, enn annar 5. Børn; so deyr Afe þeirra, þá fær þad eina Sonar Barnid eins miked og hin 5. því ad Erfíngiar eru her í Nidurstígande Línu. Ødruvís er þad ef eiñ Madur hefur átt 2. Brædur sem báder eru dauder og á annar epter 1. Son enn annar 5. Syne, sídan deyr Fødur-Bróder þeirra; þá á Arfurinn ad skiptaz í 6. iafna hlute mille Brædra Sona hans vegna þess ad Erfíngiarner eru her í Sídu-Línuñe.

*) Her athugaz ei Siøunde madur heldur gengur Arfurinn ofanepter í fyrstu Sídulínu medan Afkomendur eru til.

gánga þau i sinna Foreldra stad og erfa þann hlut, sem þeirra Foreldrar stódu til.

## XL. Art.

Eru þesser eí til þá erfer * Fodurfader Módurfader, Fodurmóder og Módurmóder eins og þau væru Systkyn.

## XLI. Art.

Eru þesse ecke til þá erfa ** Forfedur uppepter.

## XLII. Art.

Eru Forfedur eí til þá erfer Fodurbróder, Módurbróder, Fodursyster og Módursyster, og Arfurinn skiptez mille þeirra eins og þau væru Systkyn.

XLIII

*) Þad er athugande ad medan nockur er til í fyrstu Sídulínu ofanepter, þá ná hvørke Afar ne Ommur til Arfs.

**) Fyrer Forfedur ega her ad skiliaz Lángafar og Lángømmur og þeirra Foreldrar hvad lángt sem þeir kunna ad ná, uppepter, þeir erfa epter Høfdatølu.

## XLIII. Art.

Eru nockur af þessum daud og hafa láted epter sig Born edur Barnaborn, þá gánga þaug í sinna Foreldra stad og erfa þann hlut, sem þeirra Foreldrar stódu til.

## XLIV. Art.

Er eí Fodurbróder, Módurbróder, Fodursyster og Módursyster til, þá erfa þeirra Born, sem eru Systkynaborn þaug og sá burtdaude oll eins og þau være Systkyn og so framveges ofanepter alt til* Siounda-mans frá hinum dauda.

## XLV. Art.

Eru nockur af þessum daud og hafa láted epter sig Born edur Barnaborn þá gánga þaug í sinna Foreldra stad, og taka þann hlut, sem þeirra Foreldrar tilstódu.

XLVI.

*] Her kemur nú fyrst Siøundemadur epter þann dauda í annare Sídulínunne, sem er epter Civil Reikninge Ødrum og Fimta vid þann burtdauda enn epter Canoniskum Reikninge Ødrum og Siøunda.

## XLVI. Art.

Eru ei þesser til þá erfa Fodur Fodurbrædur og Systur, Fodur Módurbrædur og Systur, Módur Fodur Brædur og Systur, og Módur Módur Brædur og Systur, eins og þau væru øll Systkyn.

## XLVII. Art.

Eru nockur af þessum daud og hafa epterláted sig Born edur Barnaborn, þá gánga þaug í Foreldranna stad, og erfa þann hlut, sem þeirra Foreldrar stódu til.

## XLVIII. Art.

Eru þesse ei til þá erfa þeirra Born eins og þau væru øll Systkyn og so framveges ofanepter til * Siounda mans frá þeim dauda.

XLIX.

*] Her er Siøundemadur í þridiu Sídulínu epter Civil Reikninge sá sem er Pridia og Fiórda víd þann burtdauda; enn Pridia og Siøunda epter Canoniskum Reikninge.

## XLIX. Art.

Eru þaug ek til þá erfa Fodur Fodur Fodurbrædur og Systur, Fodur Fodur Módurbrædur og Systur, Fodur Módur Fodur Brædur og Systur, Fodur Módur Módur Brædur og Systur, Módur Fodur Fodur Brædur og Systur, Módur Fodur Módur Brædur og Systur, Módur Módur Fodur Brædur og Systur, Módur Módur Módur Brædur og Systur, oll eins og þau væru Systkyn.

## L. Art.

Eru nockur af þessum daud og hafa láted epter sig Born edur Barnaborn þá gánga þaug í sinna Foreldra stad og erfa þann hlut, sem þeirra Foreldrar stódu til.

## LI. Art.

Eru þesse ek til þá erfa þeirra Born eins og þaug oll væru Systkyn, og so framveges ofanepter allt til *) Siounda Manns frá þeim dauda.



*) Herer Siounde-madur epter Civil Reikninge sá sem er Pridia og Fiórda vid þann dauda enn Fiórda og Siounda epter Canoniskum Reikninge.

## LII. Art.

Eru Bónde og Húsfreyia adskilen med Dóme, og þad vill til, ad þau ege ad erfa sín Born, þá tekur Húsfreyian í slíkre Erfd iafnt vid Bóndan, og iafnt vid Son og vid Stiúp-Son, þá þau koma saman ad erfa; nema þau seu adskilin fyrer Hór; því þá erfer sú Saklausa Persónan alleina Barnid.

## LIII. Art.

Druckna edur innebrenna edur med ødru móte missa lífed aller under eins, þeir sem ega ad erfa hvor annan, ef seinn lifde lengur enn annar, og einginn getur sagt edur vitnad hvor þeirra fyrst dó; þá skulu þeir sem þá erfa ega, erfa þad, sem hvor þeirra átte siálfur, ad óøgtudum þeim Arfe, sem þeim eina epter þann annan kynne hafa tilfalled, ef Hann hefde hinum lengur lifad.

## LIV. Art.

Eru *) Utarfar til sem búid er ad skipta út af Felagsbúe þeirra Hlut og nockur af þeim

*) Utarfar takaz med tvennu móte í Løgunum

þeim deyr, sem eru í Felage saman, þá skiptez allt Góðsið eins og þeir aller lifde í Felage saman, og síðan skiptez þess Burtdauda hlutur mille allra Erfíngiaña.

## LV. Art.

Fyrergiörer nockur Líse sínu og *) Egum, þá kunna Hans Erfíngiar, þegar Hann



1. Skiliaz þar under aller, sem eí eru Lífs-Erfíngiar N. L. 5. B. 4. C. 7. A. 2. þeir sem hafa fenged sinn hlut útskiptann af Felags búe. Annars kemur Juristunum eí saman uñ Skilníng á þessum Articula, enn Hann kann best ad upplýsaz med epterfylgiande Dæme. 4. Brædur sitia í Felagsbue, sem oft kann ad ske, ad þeir skipta eí epter Foreldra sína þá aller eru minduger: síðan vill einn þeirra qvongaz og fá siñ hlut út af búinu, þeir reikna þá Búid, og skipta hønum sínum hlut, enn þeir halda Felagsbú epter eins og ádur; síðan deyr einn af þessum þremur, þá skipta þeir Felagsbúinu eins og þeir aller þrír lifðu í þriá hlute, og síðan skipta þeir einum hlutnum sem þeim dauda hlotnaz í þriá Parta og tekur hvør af þeim Lifande eiñ partinn.

*) Høfudlóð sem stendur her í þeim N. L. hefe Eg lagt út fyrer Egur, því her merker það meir enn Lausafe einsaman N. L. 1. B. 22. C. 10, 12. A. Þó aftekur eí þesse Articule, það

Hann er daudur þó eí þar fyrer ad missa þann Arf, sem þeim sídan kynne til ad falla epter þá sem þeir erfa ega, í þess stad sem hafde fyrer-giort Fe og Fiørve.

## LVI. Art.

Sker þad, ad Barn, sem fyrst er fædt, erfer sitt Hálfsystkyn med Módur sinne edur nockurn annann, þá skal þad, sem þañveg hefur erft sitt Hálfsystkyn edur adra, hvørsu mørg Systkyn, sem sídan fædaz, úttaka auk síns Erfdahlutar, þad sem þad þannveg erft hefur, nær skipta skal epter Fødur edur Módur.

## LVII. Art.

Er Sonur í Felage med Fødur sínum og græder Peninga med Kauphøndlan, og hefur

þad sem vor Løg segia, nefnel. Stóre-Dóm ur af 1565 ad í Blódskam̃ar Málum koma Jarder til Løgersíngia: Ne þad sem seger Mh. 4. C. ad í ødrum Obótamálum enn Landrádum og Drottens svikum vid Kóng se Jardagóds forbroted til helmínga skipta mille Kóngs og Løgersíngia hins Seka; Eí heldur R. B. M. K. Lagabæters, sem tilleggur Børnum hins seka fullan Forlags-Eyrer þar til þau verda Matvinnúngar.

hefur ek fenged sinn hlut útskiptañ frá Fodur sínum, þá skal Hann nær Faderinn deyr, og Hann vill epter Hann Arf taka, færa til Skiptes allt þad hañ grædt hefur eda misse Arf; Enn er Hann fyrer utan Felag giptur edur ógiptur og siálfur græder Peninga, þá heldur Hann því sem Hann grædt hefur og erfer þó Fodur sinn og Módur.

## LVIII. Art.

Dvongaz Sonur og færer Konu sína iñ til Fodur síns og Módur, þá skal skírt Registur gioraz yfer þad, sem Hún innfærde, med gódra Manna Hondum under. Því deyr Hann medan Hann er í Felage med Fodur og Módur, hvort heldur Hañ á Born med Konu sinne edur ecke, þá tekur Hún ecke meir enn hún innfærde, því Bónde Hennar hafde ei Arfahlut medan Fader Hans og Móder lifdu; nema Honum være nockud serílage í hondur gefed, edur Hann siálfur hefde nockud unned edur grædt fyrer utan Felag edur ad Erfdum fenged. Enn hafe Hann Born med Konu sinne, þá vere þau med Fodurfodur

og Fodurmódur og take Arf epter þau látin.

## LIX. Art.

Þad sama er og ef nockur tekur ser Konu, hvorrar Foreldrar lifa og * flytur iñ til þeirra.

## LX. Art.

Enn ef sá sem innflytur í Felag afrœker uppskrift retta ad giora á því sem Hann innfœrer og deyr sídan, þá skal þad epterlifande giora siñ Eid uñ þad hvad miked innfœrt var, og ega Erfíngiar þess burtdauda ad láta ser þar med nægia nema þeir gete innan Ars og Dags þad odruvís bevísad.

## LXI. Art.

Hefur Fader, medan Móderin' lifer ** gefed einu sínu Barne nockud í hondur, eda

*) Þá ega Hañs Egur sem Hañ iñflytur ad uppskrifaz.

**) Her kann ad verda Spursmál ef Fader giører þetta vid sitt Barn epter ad Móder er daud, hvørt

eda kostad uppá þess utanlands Reisu, edur gefed því til Giftíngar (þó ei Brullaups Kostnadur her med meintur) edur þess háttar, og deyr Fader, ádur Hañ fær giort Bornum sínum iofn skil, sem Honum synez og rett er ad Logum; þá reiknaz sá Kostnadur sem Faderinn þannveg uppteiknad hefur í Barnsins fulla hlut þegar skipt verdur annadhvort epter Fodur og Módur, epter því sem Samfrændur og Yfervaldid álíta sanngirnelegt og Búid getur þolad, og so ad hin onnur Bornín ecke ímisse, heldur nióte iafnadar epter Logum. Vilie Barnid ei láta þetta til Reiknings] færa í sínum Arfahlut, þá innfære í Búid, þad sem þad epter Fodur síns Uppteiknan medteked hefur. Vilie Barnid þad ei giora þá misse Arf.

 LXII.

hvørt þad skule teliaz Barninu upp í þess hlut þá Arfur tæmez? Þad er eflaust ef Faderinn ætlar til þess, allra helst ef Faderinn er aptur qvongadur, þó aftekur þesse Articule ei þad sem Vor Log Erfda 28. C. tala um Giafer. Siá Tyro Juris. 2. B. 10. C.

## LXII. Art.

Enn vikie Barnid * nægiaz med þad, sem þad þannveg af Fodurnum fenged hefur þá skal þad eí neydaz til ad innfæra þad aptur edur iafna vid sína Meðerfíngia, so framt Skuldaheimtumenninner þar vid eckert missa.

## LXIII. Art.

Ef Fader lætur epter sig Odalsgóds edur annad Jardagóds ** þá víkur eldste Son-

*) Hvort þesse Articule gilder hiá oss, framar enn Samerfíngiar og Yfervaldid vilia er eí so víst, siá Erfda 1. þó hefur Tyro Juris til þess ætlad.

**) Þar eru Løgspaker Menn, sem eí kannaz vid Odal og Odals-Rett her í Lande allra síst til forna. Enn eitt er þad, ad hluturinn se eí til edur hafe vered, annad ad Hann se til og þó under ødru nafne edur í Samburde vid annad. Því látum vera ad Íslendingar hafe viliad láta allt Jardagóds hafa sama rett; Látum þá aldrei hafa vid Odals-Rettinum taka viliad þá Jónsbók var vidtekin 1280; og látum þá þarfyrer hafa úteluft þá grein sem stendur seinast í 4. Erfd. í þeim þriktu Bókum. Þá er þó samt Odals Nafnid ad finna annarstadar í Bókinne; Odals-Rettinn ad nockru leite innfærdann í Landabr.

Sonur til Höfudbólsins og Adseturſins og hin önnur Syſtkyn taka iafnar Jarder
C 5 i þeirra

Balk; og Hann med lángre óafbrotinne Veniu í Løg leiddann; Hvor Venia ad ſtadfeſt er med því ad um Hann talar í ýmſum Kónglegum Forordníngum, og í øllum Taſtamentis Stadfeſtíngar-Brefum er Odals-Rettarins geted; og aungvum kemur nú í hug ad ſlengia ſaman þeim Jørdum, ſem yſer 20. Ár hafa í Ættleggenum leged vid hinar. Þeir Norſku hafa miked umhyggiu fuller vered um Odul ſín, og ad þaug ecke úrættes genge; er því liklegt ad Islendíngar, ſem af þeim komner voru, hafe haft ſømu þánka; má þad og finna í Søguuum, ſo ſem Niálu, Eyrbyggiu og annarſtadar og þar af elder þad nú epter ſem Nl L. her giøra ſo greinelega rád fyrer, ſem er ſamqvæmt vid 1. Erfd í Jónsbók. Her af kemur þad ad Arfgánga í þeſſu efne áhrærande Høfudbólid víkur frá annare Arfgaungu; Því her geng-ur alltíd Kalleggur fyrer Qvennlegg. Þad ſýner enn nú greinelegar Forordníngin af 6: Maii 1752. 1. Ad Høfudbóls-Retturinn nær til allra Afkomenda þeſſ burtdauda. 2. Ad Madur af Manne gengur fyrer Qvinnu af Manne. Til dæmes: Einn Fader átte 2. Syne, ſá eldre er daudur og á epter Dóttur, hinn yngre annadhvørt lifer edur er daudur og á epter Son; þá fær ſá yngre Sonurinn eda Sonar Sonurinn Høfudbólid epter N. L. ſem eí er heldur fiarlægt Vorum Løgum. Siá 1. Erfd. 3. Kona af Manne gengur

í þeirra hlut, hvort ad sínu leite, Bródur einn Bródurhlut og Syster einn Systurhlut epter Dánumanna virdíng; Er einginn Sonur til þá víkur eldste Sonar Sonur, edur annar Sonar Sonur, sem næstur er til Hofudbólsins. Er einginn Sonar Sonur til, þá eignaz eldsta Dótter Hofudbólid og hinar Systurnar iafngódar Jarder so sem nú er sagt um oll Systkyn saman. Eru þar ei nógar Jarder til ad leggia á móte Hofudbólinu, þá fá Maderfíngiar fullt í Peníngum og odrum aurum. Ef þeir ei hrockva til fulls, þá skal eldste Sonur þó niota Hofudbólsins sem sagt er, og gialda hinum Landskuld hvorium fyrer sinn Part epter Dánumanna álite. Sádgordunum med *) Jure

gengur fyrer Manne af Konu epter nefndre Forordníng, so ad Sonar Dótter fær fyrr Høfudbólid enn Dóttur Sonurinn. Þetta munde og vidaángaz í Islande þar Vor Løg skera þar ei greinelega úr.

*] Jus Patronatus er 1. Egnar-Rettur yfer einne Kyrkiu og øllum hennar Innutektum í stadin ad Egandinn vidheldur henne forsvaranlega. 2. Rettur til ad kalla Prest til hennar edur Jus Vocandi. Þennann sídare Rett hafa Islendíngar mist, fyrer annarra áseilne;

á

Jure Patronatus, Birke-Rette og so morgum Vikudaga og Næstliggiande Bændum, sem þurfa, til ad fylgia fram Kornaflanum skulu Brædurner halda og Systurnar skulu taka í sinn Arf Utiarder; gete þær eí nád sínum hlut þar í edur í Lausafe og Kaupstadar gódse, þá skulu Brædurner, sem þannveg hafa Sádgardana fenged, sem nú er sagt, fá þeim fullt fyrer þeirra Arfahlut med ødru móte edur taka þær til Felags med ser í Sádgordunum, ad so miklu leite sem Systurnar í sinn Arfahlut ega ad hafa.

## LXIV. Art.

Kemur Sádgardur til Skiptes mille annarra Erfíngia, og þeir vilia eí í Felage vera

---

á hinum fyrre lafa þeir enn nú ad nockru leite, þá þeir mega Rettar síns nióta. Siá P. Widalins Bref De Jure Patronatus útlagt á Dønsku og á Prent útgefed fyrer fám Árum.

Birke-Rett útmálar nockud Osterſens Gloſſarium, hann er ókunnugur her í Lande sem og Skyldu-Piónusta Bænda, sem betur være ad aldrei her meir innkiæmez enn sked er.

vera, og þó ei geta komed ser saman um̃ Kaupid, ad sá eine kaupe af þeim odrum; þá; so ad Gardurinn mege med Bændum og Herlegheitum halda ser, má sá eine Erfínge bióda þeim odrum, og ef þeir edur Haun, sem boded er ecke vilia ad því gánga þá skal Mederfínginn sem meir vill gefa, enn hinn edur hiner vilia vidbióda, hafa Rett til Gardsins og Gódsins. Getur og nockur af þeim útvegad Kaupanda, sem vill gefa meira og hærra þar fyrer enn Erfíngiar sín í millum bióda, þá má sá eine ei hindra Kaupin hinum til Skada, heldur vera skyldugur til ad selia. Þó ef Erfínge vill innan Ars og Dags gefa so miked, sem sá Mestbióðande og þar fyrer setia fullkomnar Vordslur, þá á Hann þar til næstur ad vera; Og á medan skal Gardurinn og Gódsid vera í Felage under Um̃sýßlun eins af Erfíngiunum, þeim sem Mederfíngiar vilia þar til trúa.

## LXV. Art.

Hvor einn Privilegeradur, sem hefur einn Sádgard, sem med underliggiande Gódse er í hid minsta so miked sem Fiogur Hundrud Tunnur Hart-korn í Danmörk skal

skal leyfe hafa til ad uppretta fyrer eitt af sínum Bornum edur Erfíngium, ef Hann eingin Born hefur, þar af Stam̃-Hús, med slíkum Skilmálum, sem Hann hyggur nytsamlegast. Enn so ad einginn af Hans Skuldaheimtumonnum þar vid Skada líde, þá skal Hann, sem slíkt Stam̃-Hús vill uppretta láta, Are og Dege ádur því lýsa á Logþínge, í því Logdæme hvar sama Góds liggur, og þar loglega bevísa, ad Hann alla sína Skuldaheimtumenn þar um̃ hefur advarad, Are og Dege ádur enn Hann þad uppretter; og undanfelle Hann nockurn þá hefur sá rett til ad taka sinn Betalíng í sama Gódse nær honum líkar, iafnvel ad þad se ad Stam̃-Húse giordt, og sídan lætur Hañ í Logþíngesbókina innfæra þann Skilmála med hvorium Hann Stam̃-Húsid uppretter; hvorier sídan óriúfanlega skulu stadfaster standa, og má sídan eingin Innfærsla ne Pantur ske í slíku Gódse, miklu sídur má þad móte þeirre fyrstu Innstiftan seliaz edur afhendaz; Enn þó má Egandinn í naudsyn vedsetia til vissrar tídar þess árlega Inntekt fyrer þær Skulder sem Hann giordt hefur epter ad Stam̃-Húsid var upprett, sem í þad lengsta skal vera Fim̃ Ar. Giore Hann

þar

þar í móte, þá vere allur sá giordníngur ógildur, og þar fyrer skal sá, sem næstur stendur Arfe hafa fullkomna Magt strax ad því ad gánga. Einginn sem stendur under Tiltale edur Manan, edur sá yfer hvorium Dómur er gengin fyrer Skulder má Stañ-Hús uppretta fyrr enn Hann hefur losad sig vid allt þvílíkt. Ef sá sem fær Stañ-Húsid epter sinn Fodur á Systkyn, sem aungvann Arf fá epter sína Foreldra, þá er Hann skyldugur til ad gefa þeim árlega slíkt, sem Samfrændum þiker billegt til þeirra Uppeldes, somuleides halda þau krofulaus fyrer þeirra Foreldra Skuldum. *

## LXVI. Art.

Bænda-Býla og Vatns-Mylna Bygging fylger þeim, sem Lódin og Jordin tilfellur án alls Vidurgialds til Mederfíngia.

## LXVII.

Þegar Birke gengur í Arf og Skipte þá fylgia

*) Þesse Articule kemur eckert vid Islande ad so komnu, hvar fyrer Eg eí heldur hirde ad útleggia þad, sem í Hønum er ókunnugt her hiá oss, hefe þó eí viliad Hann einstakann undanfella.

fylgla Herlegheitiu þeim hvorium Sádgardurinn tilheyrer, sem Birkid liggur under.

## LXVIII. Art,

Þegar Erfíngiar eda Samegendur vilia skipta Odals Jordum og hafa Sóknarmenn eda Samegenlega Vine þar vid; þá skal sá sem Skiptes bidur stefna øllum sínum Mederfíngium og Medegendum eda þeirra Fiárhaldsmonnum ef þeir eru ómindugar til Jardar, þá hún er aud og ósád, og skal þesse Stefna ske so laungum tíma ádur, ad hvor einn af þeim mege hafa loglegann tíma til ad koma epter Heutugleikum ef Hann er innanlands. Vill hann þá ei koma til Skiptes og hans Videgendur bevísa ad Hann var loglega stefndur, þá mega þeir þó skipta og giora so marga hlute, sem þeir eru marger Mederfíngiar og marka hvørs eins hlut; þau mørk skulu skilrík er Menn siá og leggia hlute á, so þeir vite hvad hvor fær í Húsum og Jordu og setie þar Steina mille, sem þeim kemur ásamt um̃ og skulu þrír Steinar leggiaz saman, og fare so á Þíng og lýse því hvad hvorium skiptez í sinn hlut og taka þar uppá Þíngsvitne

vitne, þá heldur hvor sínu átolulaust. Er nockur af Mederfíngium Utanlands, þá skal Hann hafa 12. Mánada Stefnu ad mæta til Jardaskiptes; kemur Hann þá ecke, þá skal Hans Erfínge stefnaz, vill Hann eige koma til Jardar, þá má Hann stefnaz til Hofudbóls med tveimur Vottum; Vill Hann eige koma, þá mega þeir þó skipta, so sem iafnast gætur orded eda epter því, sem þeim kemur saman. Med sama móte, sem nú er sagt um Odals-Skipte skal gánga þegar Kaupa edur Pant-agóds, skiptez mille Erfíngia edur Sameg-enda. Einginn má neita odrum iafnadar innan þriggia Ara; Þó heldur hvor sínum hlut, og sá sem meira feck legge frá ser til hins sem minna hefur. Er eí iofnudur og Skipte átalin innan þriggia Ara þá heldur hvor því, sem honum hlotnadez átolulaust.*

## LXIX. Art.

Verdur Agreiníngur mille Systkyna og annara ad nockur hafe ofnaumt fenged í Skipt-

*] Landabr. 3. C. í Jónsbók er miog samqvæm-ur þessum Articula þó í þann Capitula vante Odals nafnid, er þad til stirkingar því, sem Eg hefe ádur sagt vid hinn 63. Art.

Skiptum, edur onnur Deiníng þar af orsakaz, þá má sá, sem þikez vanhaldenn kalla hin ounur til iafnadar innan Árs og Dags, ef Hann er innanríkes og mindugur, og þá skulu Samfrændur vidleitaz ad sætta þau. Geta þeir eí samed med þeim, þá skulu *) Commissarii edur góder Meñ þau skilia med Dóme.

## LXX. Art.

Ef Eckiumadur, sem eí hefur epter sína Húsfreyiu skipt med Bornum hennar edur Erfíngiuñ, hefur teked ser adra Húsfreyiu og fært hana inn í Oskipt Bú móte Logum, þá, nær annadhvort Bóndinn edur Húsfreyian deyr, byriar Bóndanum edur Hans Erfíngium ad bevísa hvad Hann átte, þegar Hann sína Húfreyiu í óskipt Bú innfærde, so ad Hans fyrre Konu, Born edur Erfíngiar kunne ad ná þeirra tilbærelegum Arfe epter Hana af óskiptu. Getur



*) Hvad Commissarii seu, er nú fared ad verda alkunnugt her í Lande; Þad eru Giørdarmenn edur Dómarar af Kónginum tilskickader í vissum Søkum, sem torveldlega verda afgiørdar med veniulegum Rettargánge, og varer þeirra Løgsøgn eí lengur enn til þess sama Søk er útkliád.

þetta eí sked, þá skiptez Búid í þriá Parta einn til þeirra Barna edur Erfíngia, sem Arf áttu ad taka epter fyrre Konuna; hiñ annar til Barna edur Erfíngia þess burtdauda; og sá þridie til þess epterlifande Bónda edur Húsfreyiu. Slíkt híd sama er, ef Bóndinn er kominn inn í Eckiu Bú sem óskipt er mille hennar og hennar fyrre Bónda Barna edur Erfíngia.

## LXXI. Art.

Frillubarn erfer eí Fodur *) Enn ef Fader færer Frillubarn sitt til Þíngs og lýser og

*) Epter Íslendskum Løgum nær Frillu Sonur til Arfs epter Fødurinn, þó eí fyrr enn í 6. Erfd. Orsøkin er sú, ad Jónsbók meinar nockud aññad fyrer Frillu enn Norsku Løg; Því Frilla het í gamla daga sú Kona, sem einn hafde so openberlega eins og Egenkonu, og med því þá var einginn vafe á Faderninu, so náde og Frillubarnid til Arfs epter Fødurinn. Siá Widalín um̃ Frillu. Hún var þar fyrer allt hid sama og Jydsku L. 1. B. 27. C. tala um̃ Slegfred Qvinde sem Madur hefur í 3. Ár hiá sier openberlega og heldur Bord og Sæng med og hún hefur Lykla ad hans Kockhúse og Kiallara, hún skal vera rett Adal Kona; Enn af þessu bar stundum og var eí heldur lided á seinne tímunum, var því oft vafe á um̃ Barnsfadernid, so sem þad geck og her

og kunngiorer ad þad er Hans Barn og *) giorer Giorgníng umm þad, sem Hann vill gefa því, þá skal þad halda so miklu, sem Giorníngurinn uppáhlíódar, þó má þad eí vera meir enn hálft móte Egtabarne og eí framar **]



her í Lande allt til þess seinast á fyrre øld, ad Menn vildu eí alltíd kannaz vid Børn þau, sem þeim voru kend, og Sýsslumenn leiddu slíkt hiá ser. Til nú ad aftaka þennann vafa, þá skipa N. L. ad Fader skule færa Barnid á Þíng, og lýsa því þar ad þad se hans Barn, og þá nær þad til Arfs epter Hann. Og af þessare Þínglýsíngu fylger þá og einnin ad sú Ovirdíng afmáez sem fylger einu Frillubarne af Getnadinum.

*) Og Skiøder, hefe Eg útlagt: Giører Giørníng umm. Hann er nú skriflega giørdur á þessum tímum og þad meina N. L. sama er epter Íslendskum Løgum Kaupab. 12. C.

**) At lyse i Kuld og Kiøn, hefe Eg útlagt: til Egta og Ættar. Annad betra fann Eg eí yfer þad. Enn her má verda spurt. Ef Faderinn giører Giørníng umm ad slíkt Barn skule taka fullann hlut vid Egtabarn, hvørt sá Giørníngur er Løglegur og má haldaz? Þad má disputera; Því þó Hann giæfe því hálft mót Egtabarne, þá til þess ad þad mætte haldaz, þurfte eí meir enn ad þínglýsa því ad þad være Hans Barn. Enn Løgin sýna liósslega, ad hin sídare Lýsíngin til Ættar og Egta hefur meire verkun. Þar hefur enn nú vered spurt umm, og orded fullkomen þræta útaf hvørt fyrre

Enn lÿser Hann þad til Ættar og Egta og giörer aungvann Giörníng um̃ hvad þad skule fá, þá tekur þad hálft vid Egtabarn Er eí Egtabarn til, þá tekur Frillubarn, sem þínglÿst er allann Arf epter Fodurinn. Og ef Frillubarn tekur Arf epter Fodurinn, þá tekur þad og Arf epter Systkyn og Fodurfrændur, helmínge minna enn Egtabarn, utan Faderinn lÿse því á Þínge, ad Frillubarn skule nægiaz med þad, sem Faderiñ gaf því í hondur, og þá fær þad eí meira, hvorke epter Fodur ne Systkyn ne Fodurfrændur. Ad Því Barne má einginn finna, sem Fader hefur þínglÿst, ad þad eí haldez fyrer Egtabarn.

LXXII

fyrre erfe Odals Jørd Frillusonur, sem lÿstur er til Ættar og Egta edur Hálfsyster skilgeten? Frillusonurinn færde til síns Máls þad sem sídast stendur í þessum Art. so og 63. Art. Enn Dótterin meinte ad þar sem eckert talaz um̃ Lÿsing þar náe Hún eí til, og þar fyrer eí til Odals; ad Menn ege eí ad giøra rád fyrer ødru enn því sem alment se, nú se þad almennt ad Børn erfe Odul, enn hitt fágiætt ad lÿsa til Ættar og Egta; ad Odals-Retturinn se Herlegheit, sem sá gete eí tilnád. sem fyrer Lÿsínguna eí fáe utan hálfann Erfdarett vid Egtabarn; og ad sá Hans Rettur se eitt Privilegium sem epter Juristanna

Meiníng

## LXXII. Art.

Hórbarn, sem aflad er af þeim, sem í Egtaskap lifer med annare Persónu *) tekur



Meining ege heldur ad skiliaz naumtenn frekt. Ek ad sídur hefur Frillusyninum vered tildæmd Odals-Jørdin.

*) Epter N. L. erfer Hórbarn Módur sína ef Hún er ógift, epter Íslendskum Løgum kynne þar vera efe á, því Stóre-Dómur giører bæde iafn sek þad gifta og ógifta sem Barn ega saman; Þó munde best, ad láta Barn nióta þess Frelses, sem N. L. í þessu efne gefa. Enn hitt er Spursmál, hvørt einn Fader ógiftur, sem hefur átt Barn med giftre Konu, getur lýst því til Ættar og Egta, og ad þad þar med náe Erfdarette? Eg munde þad víst ek dæma, því í siálfu ser er slíkur Madur sekare, enn hinn sem tekur ógifta Persónu fram hiá Konu sinne, og því munde Hann þurfa Kónas-leyfe ef slíkt Barn skylde til Arfs ná. Enn nú má verda Spursmál hvørt þad Barn, sem geted er í Frændsemes edur Mægdaspiøllum náe til þess Arfs epter Módur sína, sem Erfíngiar fá epter Stóra-Dóme nefnel. Jardagóds? Því munu flester neita; þó má sýnaz Athugamál hvørt Frændsemes spiøllin eru í Upp- og Nidur-stiaande Línu, edur í Sídulínunum. Epter Nátturunnar Løgum sýnez Frændsemes spell í Sídulínunne ek stærre Synd, enn ad taka ógifta Persónu fram hiá Konu sinne og jafna er um Mægda spell, nema ef Menn undantaka Stiúpdóttur, þar á mót sýnez þad full-

eí Arf epter þad, sem í Egtaskapnum brot-
ed hefur. hvort þad er Fader eda Móder,
iafnvel þó Faderinn þínglýse því og med
skriflegum Giorninge gefe því epter sig so
miked, sem Hann mest má, nema Hañ gefe
því nockud í hendur ádur Hann deyr.

## LXXIII. Art.

Frillubarn tekur Arf epter Módur iafnt vid
Egtabarn, hvort sem því er þínglýst edur
ecke; Somuleides epter Módurfrændur.

## LXXIV. Art.

Móder og Módurfrændur erfa alleina Frill-
ubarn, sem eí er þínglýst; Enn se því þíng-
lýst þá erfer Fader og Fodurfrændur þad,
eins og þad være Egtabarn.

## LXXV. Art.

Ef nockur drepur þann, sem Hann á ad
erfa, og þad skedur eí af Voda eda Naud-
ver-

---

fullkomlega so stór Synd ad leggiaz med añars
Mañs Egen-Konu, sem ad giöra Blódskom í Upp-
og Nidur stígande Línu. Mege nú Hórgeted barn
med ógaistre Konu erfa Módur sína og Frændsemes
Spell í Sídulínunum, er eí stærre Synd ísiálfu
ser, því má þá eí þad Barn, sem so er aflad og
so erfa Módur sína?

veriu, þá má hvorke Hann ne Hans Erfíngiar taka Arf epter þann, sem drepinn var; enn Arfurinn skal skiptaz í millum annarra næstu Erfíngia þess drepna.

## LXXVI. Art.

Er Arfur fluttur út af Býnum, edur af þess Húsbónda Lód, sem Hann var fallenn á, þá gefur hvor, sem þannveg útfærer Arf, Leysfespeninga tvo Lód Silfurs til Býsins edur Húsbóndans *).

## LXXVII. Art.

Vilie nockur utan Ríkes búande af Ríkinu Arf útfæra, sem Honum kann vera tilfallenn í Ríkinu, edur ef nockur her í Ríkinu búande sitt Góds og Formegan út af Ríkinu flytur, Penínga á Rentu setur, Hús og Garda under framande Herradæme uppbygger eda kauper, þá skal Hann þar af fyrst epterskilia Kónginum þann Siötta part og af því, sem þá er epter þann Tíunda Part til Yfervaldsins edur Húsbóndans, hvort heldur Hann er búande í Kaupstad edur út á Landinu.**)

 LXXVIII

*] Þesse Articule er oss óvidkomande.
**] Þesse Articule á ei heldur heima hiá oss, meir þess

## LXXVIII. Art.

Verdur þad og funded ad Peníngar og Góds hefur ad undanfornu af Ríkinu útsendt vered, þá skal þar af gefaz allt eins og þad enn nú her í Ríkinu findez. Og so þad verde med vissu vitad hvad útsendt er, skal Arfurinn so lenge vid einhvorn Rett kyrr setiaz, til þess þad verdur innvirduglega ransakad. Og þegar nockud iafnvel af einum Búanda verdur útsendt, þá skal í tíma hafa tilsión um̃ ad betalez, þad sem Kóngurinn og Yfervaldid edur Húsbóndinn ega ad hafa og allt þetta skulu Kóngsins Amtmenn og Sýsslumenn so athuga, sem þeir siálfer vilia standa í rette fyrer, hvor Skade sem af þeirra vanrækt kann ad hlotnaz. LXXIX

þess vegna ad Vier erum ei í þeim vændum, heldur enn hins, ad Vier seum ei skylder epter hønum ad lifa; Því ad í øllum Testamentis Stadfestíngum er tilteked um̃ Siøtta og Tíunda Pening. Af Articulanum sýnez sem Yfervaldid ege Tíunda Peningiñ, enn Forordníngin af 24. Januarii 1720. befalar ad Tíunde Peníngur skule reiknaz Kónginum til Innkektar. Noreg er ei áliten ad vera utanríkes og þar fyrer ei heldur Island; Þar eru og nockrer fríer frá ad betala Siøtta og Tíunda Pening, so sem eru Framande, sem innfæra Peninga til ad kaupa Jardagóds edur setia þá á Rentu, og í siálf-

## LXXIX. Art.

Enn ef nockur utanríkes Erfínge afhendes einhvorium Ættmanñe þeſſ burtdauda, ſem er innanríkes búande, ſinn Arfahlut án nockurs Vidurlags, ſo ad hvorke Arfúrinn útfærez edur þad allraminſta Vidurlag fyrer hann, þá á hvorke Siotte eda Tíunde peníngur þar af ad gefaz. Enn finnez þar nockur Svik under ſlíkre Afhendíng, ſo ad Erfíngianum verdur gefed nockurt Virdurlag fyrer Arfinn, þá ſkal hann, ſem Arfinn medteked hefur, ecke einaſta ſvara þeim Siotta og Tíunda peninge þar af, heldur og hafa fyrer giordt ollum Arfinum til Kóngſins, og þar fyrer utan fyrer ſlík Svik bæta ſín þriú Mork.

## LXXX. Art.

Ef nockur af Kóngſins innfæddum Underſátum uppeheldur ſer utanríkes, ſem þó áſetur inn í Ríkid ad flytia, og honum nockur Arfur á medan tilfellur; þá ef hann giorer Yfervaldinu viſſu um ad ſame honum tilfallenn Arfur eí ſkule af Ríkinu útfæraz,



ſiálfu ſer talar Articulinn um þá, ſem færa Peninga út, enn ecke þá ſem færa Peninga inn í Ríked.

færaz, á Hann ad vera frí frá ad svara þeim Siotta og Tíunda Peninge.

## LXXXI. Art.

Vilie nockur Arf kaupa, þá skal hann þegar Arfurinn og Búid rettelega er uppskrifad og virdt, taka hiá Borgmeistara og Ráde í Kaupstodunum og út á Landinu hiá Sorenskrifaranum eda Birkefógetanum edur odrum, sem Skiptin ega ad giora, ná qvæma Bevísíng, Rádstofu edur Þíngsvitne, uppá Búsins Tilstand, Lód og Lausa Aura, Laust og Fast, Inngiald og Utgiald, so sem næst verdur komez af Uppskriftar bókanna og Handskriftanna Yferskodun, og skal, til ad fyrerbyggia oll Svik, slík Upplýsíng og fullkomin Uppskrift á Arfinum, so og hvar Arfahluturin seldur er, í sama Arfs Kaupbref, ef þad skal gilda, fullkomlega innfæraz med Dag og Datum; Og þar hiá skal bevísaz, ad áminst Búsins Asigkomulag er þeim Selianda, náqvæmlega til vitundar gefed, fyrr enn Kaupin eru giord, og þad í Seliandans Yfervalds og góds Fólks Nærværu.

## LXXXII. Art.

Vonar Arf má eingenn hvorke selia edа pantsetia.

## LXXXIII. Art.

Eckert Yfervald edur Rettarins Þienare, sem hefur med Skipte ad giora má siálfur kaupa þann Arf, sem under hans egen Logsogn fallenn er; eí heldur gefa nockrum Umbod til þess. Dirfez nockur her imót ad giora, straffez eins og sá, sem uppvís verdur ad Svikum og Underferle.

## LXXXIV. Art.

Hvor sem vill erfa edur ser af Arfe skipta, skal svara til þeirra Skulda sem Hann erfer ad því leite, sem hann Arf tekur. Þó ef einhvor Skuldaheimtumadur hefur Bref þess burtdauda, sem skuldbindur Erfíngiana einn fyrer alla og alla fyrer einn, þá ega Erfíngiarner ad gegna þeirre Hans Skuldbindíng, iafnvel þó þeir hafe Afgialdinu mille sín skipt. *) Somuleides ef í Búinu

eru

*) Þetta nær og eflaust til Konú-Mála, sem epter Islendskum Logum gengur til iafns med Omagafe Erfda. 19. C. Siá Tyro Juris 3. B. 13. C.

eru Kóngsins Peníngar, af því sá burtdaude hefur haft Reikníngskap under höndum, Omaga eyrer, Fátækra fe, Kyrkiufe, og ef Erfíngiar skipta Búinu mille sín ádur slíkar skulder eru afteknar, þá ega aller þeir fyrer einn, og einn fyrer alla þar til ad svara. Hid sama er, ef nockur Skuldaheimtumadur, sem eí hefur Bref uppá ad einn skule betala fyrer alla og aller fyrer einn, beidez Betalíngs á Búinu, ádur því er skipt, og fær hann eí.

## LXXXV. Art.

Þegar nockur sá deyr, sem hefur haft Kóngsins Reikníngskap under höndum, og hefur aungva Qvitteríng þar fyrer, þá mega þar eingin Skipte haldaz fyrr enn Kóngurinn hefur fenged sitt, so framt Skuldarheimtan eí er yfer þriggia Ára gomul frá Hans daudadege ad telia; því ef Skuldaheimtan er eldre, þá ega Skipten eí þar epter ad bída, heldur á um̃ soddan Heimtu ad fara, sem um̃ adrar Skulder.

## LXXXVI. Art.

Vilie retter Erfíngiar eí Arf taka, og eínginn ser af Arfinum skipta þá skal Húsfreyia,

frevia, Børn edur Erfíngiar, sem Mind-uger eru, eda þeirra Omindugu Fiárhalds-menn og Frændur, sem nærværande eru edur adrer sem Umsión hafa í Húsinu strax af Rettarins Þienurum láta forsigla Búid, Lausafe og annad, og þad so náqvæmlega forsiglad í góda geymslu setia, edur standa þar fyrer í rette, so sem fyrer adra, med vitund giorda ótrúmennsku. Þó skal þeim vera leyfelegt háskalaust óforsiglad ad nýta og brúka til daglegrar Notkunar og Uppelds-es Kost og øl og naudsynleg Búsgogn, so sem þeir vilia tilsvara, sem þó skal rette-lega uppskrifaz.

## LXXXVII. Art.

Gengur nockur inní forsglad Sterbbú og þar uppbrýtur eda burttekur Innsiglin og honum þad loglega yferbevísaz, bæte sín þriú Mork.

## LXXXVIII. Art.

Skipter nockur ser af Sterbbúe og rug-lar og rædur í því epter eginvilia án Rett-arins Þienara Vidveru, edur Vidkomenda Vilia og Samþickes, hann svare út so

mik-

miklu, sem Vidkomendur vilia under þeirra Eid, skulda hann fyrer.

## LXXXIX. Art.

Verdur nockur fundenn í því ad hafa giort Arfsvik, svare út því sem hann hefur burtsviked med Skadagioldum og bæte sín þriú Mork fyrer sinn Otrúskap.

## XC. Art.

Fær nockur Arf, sem hann er haldenn rettur Erfínge til, og bevísaz þad sídan odruvís, þá skal hann aptur svara til þess retta Erfíngia ollu því hann vidtók, bæde í Jordu, Góodse og Peníngum án Landskuldar edur annars Avaxtar. Enn sitie nockur í Arfe þeim, sem bevísad er ad hañ eí med ege, þá má sá, sem Arfinn med rettu á, láta, epter undangengnum Dóme med Rettarins Þienara og annarra tilkalladra hiálp, færa Hann þar útaf, ef Hann eí góodviliuglega vill burtvíkia, og þar fyrer utan svare hann hinum Landskuldum ollum og ágóda sem hann hefur afhaft, og so Sakarinnar Uppákostnade.

## XCI. Art.

Þad Yfervald og Rettarens Þienarar, sem skulu fyrer Skiptum standa, eru á Landinu Kóngsins Amtmadur edur Húsbónde annadhvort siálfur edur fyrer Umbodsmenn. Í Kaupstødunum eru þad Borgmeistarar og Rád med Býfógetanum eda Rádstofu- og Bý-skrifaranum, edur ødrum Under- og Yfer-Rettarins Þienurum med þeirra Secreterum og Skrifurum. Medal Geistlegra er þad Herads-Prófastúrinn og tveir Prestar, og skal annar þeirra halda Protocolen. Og skulu nefnder Skiptaforvaltarar hafa eina Bók, hvar í Uppskrift af øllum Skipta-Brefum, sem útgefen eru, skulu innføraz. *)

*) Um Skipta Forvaltara her í Lande er ádur geted vid þann 17. Articula.

